# Tilskipan
umm
# Presta-Eckna
# Til-Lag
## A ISLANDE.

ex Rescript.

Utgiefen.

FREDENS-BORG D. 5. Junij 1750.



Prentud ad Hoolum i Hialltadal, Anno 1751.

# Friderich Sa Fimte af

Guds Naad, Kongur til Danmerkur og Noregs, Vinda og Gauta, Hertoge i Slesvijk, Holſtein, Stoormaren og Ditmerſken, Greife i Oldenborg og Delmenhorſt. Vor Sierleg Goodvilld Fyrerfram̃!

Med þvi Vier høfum merkt, ad Preſta-Ecknaña Aſigkomulag aa Voru Lande Jslande, ſie ſvo Aumkunarligt, ad þegar Eirn faatækur Preſtur þar i Landenu Andaſt, Pa ſkule Kyrkiañ og Stadureñ afhendaſt i Goodu og Forſvaranligu Stande, med øllu þvi er þar tilheyrer og Inventario, Og ſu Uppboot ſem gioraſt ſkal, ſkule takaſt, aadur eñ nockrar adrar Skullder, eru golldnar, Svo ad af þeim Epterlaatnu litlu Femunum, verdur opt harla lijted epter, og Stundum alls ecke handa þeim Preſta-Eckium, ſem hvørke hafa Tillag, nie nockurn viſſañ Bwſtad ſig aa ad flytia, hvar af Ordſakaſt, ad þær opt neydaſt til ad fara burt wr Sookneñe, edur flytia ſig aa þau Veſælldar Bijle, hvar þær ei kuña ad lifa; Pa høfum Vier; Epter Allraunderdanigaſt þar um̃ til Vor giørdu Underlage, til ad ſorga þeim Faatæku Preſta-Eckium i Skaalhollts og Hoola Stiptum aa um̃gietnu Jslande i þeirra Faatækt, nockurn Veg fyrer Lietter og Studninge, af Sierdeiles Kounuglegre Naad, Allra-Naadugaſt Gott funded, ad Skipa og Skicka Sem fylger.

I.

Af Høfud-Kollunum aa Jslande, ſkulu Preſta-Eckiurnar, i þeim ſømu Køllum, nioota hiñs Attunda Parts af þeirre viſſu Jñtekt, og af þeim beſtu Medal-Køllum hiñs 10da Parts; Og ef i Eiñe Sookn eru fleire Eckiur eñ Ein, ſkal ſama Tillag ſkiptaſt millum þeirra, epter Profaſtſins Nidurjafnan, og meigu þær upp i ſlijkt Tillag wtvelia ſier til Abwdar, hvøria ſem þær fiña hentugaſta af Kyrkiu-Jordunum, ſem Preſtureñ ei medþarf til eigeñ Brwkunar; Po ſkal Eckiañ i þvi Preſta-Kalle, af hvøriu lagt er til uppgiefa Preſta, laata mijnka vid ſig, epter þvi ſem Tala til rekur, af þvi ſem ſoleides er til-lagt.

Af þeim Medal-Stødum, hvorra Arleg Jñtekt er, fraa 50. til 60. Rixdala, skal Prests-Eckiañ hafa 12ta Part af vissre Jñtekt Kallsins, og maa epter aadur-sogdum Hætte wtvelia sier Eina Jord til Abijles, hvorrar Afgialld skal koma upp i Tillaged; Eñ ef Afgiallded er meira eñ Tillaged, skal Eckiañ borga Prestenum þad yfer hefur.

3.

J hinum ødrum Presta-Kollum, skal Prests-Eckiañ alleinasta hafa Riett til ad wtvelia sier Eina af Kyrkiuñar-Jordum til Abijles, fyrer Venjulegt Eptergialld, sem svarest til Prestsins; Og svo ad þessar Jarder, sem Presta-Eckiurnar hafa af Kollunum, til Abwdar, Ætijd kuñe vera i Goodu og Forsvaranlegu Stande, skulu Hreppstioorar Arlega aalijta sømu Jarder, og aavijsa Eckiuñe þad sem fliootlega bætast þarf. Eñ ef Eckiañ fyrer Faatæktar Saker, gietur ei laated umbæta, skal Prestureñ sialfur laana þad fyrerfraũ, sem Triaaviduren kostar, Eñ Bændur i allre Sookneñe skulu leggia samañ, ad laata uppbyggia Hwsed med Veggium og Pake, Hvar fyrer þeir einkis añars skulu nioota, eñ Fædes, medañ Verked yferstendur; Og ef Vidkomendur hier i nockud forsooma, Eiga Hreppstioorar sialfer ad svara til þess aafaatt er, og sækia aptur siñ Skada, hiaa þeim sem forsoomad hafa ad lifa epter þeirra Løglegre Skipan; Ef Eckiurnar sialfar eru megnugar til ad vid hallda þeirra Jordum, og ei villa laata þær Endurbæta, epter Hreppstiooraña Saũgiarnlegre Aamiñingu, þa hafe þær epter Prisvarsiñum fyrersettañ Tijma, til Endurbootar, fyrergiort somu Jordu; Og ef þær Jarder eru lagdar i þeirra Tillag, þa misse þar af slijkt, sem Jardareñar Afgiallde kañ svara.

4.

Ef nockur af þessum Jordum hefur einhver sierleg Giæde, ødrum framar, Svo sem Skooga, Verstødu, Reka, edur øñur Jardar Hlyñende, þa skal Eckiañ ei meira þar af nioota, eñ hun til eigeñ Brwkunar og Bws-Naudsynia med þarf, Eñ þad Afgaangs er sagdra Kosta, maa Presturen epter Porfum brwka og sier Hagnyta, og skal Presturen med Hreppstioorunum grañt til siaa, ad þessare Grein epter lifad verde hid allra Hlijdneslegasta.

Þar sem eingeñ Jørd Kyrkiuñe eda Prests-Setrenu tilheyrande er i Sookneñe, skulu Presta-Eckiurnar faa nockra adra Jerd, sem þeim kañ vera þienañleg til Abwdar, i nærstu Sookn, sem Prests-Setrenu eda Kyrkiuñe þar til heyrer, og ef hun er ei til, þa skal Syslumadur og Hreppstioorar vera skyllduger ad wtvega Eckiuñe hendtuga Jørd i þeirre Sookn, sem heñar Madur hefur þioonad, ef Eigande situr ei sialfur aa, edur hefur leigd vered, og vel seteñ af sama Boonda yfer 20. Ar, og ef su Jørd, sem þañig er handa Eckiuñe losud, hefur vered fest af Abwandanum, aa Eckiañ ad borga hønum þa Festu, og Syslumadur wtvega hønum adra hendtuga Jørd; Eñ vilie Eckiañ flytia sig fraa þeirre Jordu, þa skal hun moot aadur-giefeñe Festu, fyrst bioodast þeim er Eckiuñar vegna fraa heñe uppstood, Þo villum Vier þar hiaa Allra-Naadugast, ad Sysluneñ, Faatækar Eckiur og Prestaña Medhiaalparar ei skiliest medal þeirra, sem af þeirra Leigu-Maala skuluu uppstanda fraa Presta-Eckiunum.

6.

Ef einhvør giører Eckiuñar Jørdu nockurn Skada, edur veiter heñe Aseilne i þvi Tilkalle er þar af kañ ad rijsa, hvørin hellst Nafne sem heiter, þa skal Lands-Drotteñ edur hañs Umbods Madur, i hañs Fiærveru, siaa til ad Prests-Eckiañ hallde sijnum Riette, og giete hun ei naad til þeirra, þa skal Syslumadur vera heñe til Adstodar, og añad hvørt sætta þau, Edur ef þess er ei Kostur, setia heñe Eitn skynsamañ Mañ til Forsvars i þvi Maale, sem Jordena aahrærer, er framfilge þvi Maale aa Þijnge, uppaa Lands-Drottens Kostnad.

7.

Þar sem eingeñ faatæk Presta-Eckia er i Kallenu, skulu þo Prestarner, epter Kallaña Inntekt, koma til Hiaalpar hinum ødrum faatækum Presta-Eckium, aa þañ Hatt, ad af hvøriu Høfud-Kalle, þegar þar er eingeñ Eckia, skal Arlega wtsvarast til faatækra Presta Eckna 1. Rixdalur specie, Af þeim bestu Medal-Stodum Sliettur Dalur, Af þeim miñe Medal-Køllum haalfur Rixdalur, Og af þeim faatæku fraa 40. til 30. Rixdala, Haalfsliettur Dalur, Eñ af þeim Køllum, sem þadañ af eru faatækare, skal eckert aa þañ Hatt til-leggiast, hvørt Tillag til Hiaalpar faatækum Presta-Eckium Arlega skal greidast

 Pro-

Profoſtunum i hvoriu Hierade i Reidu-Peningum, Og þad ſnañ Utgaungu Maij Mánadar, Ella ſie Tvij-golldeð; Hvør Collecta (edur Samſafn) Profaſtarner ſkulu, aſamt fátækra Preſta Tillage af Kollünum Árlega, under 2. Rixdala Vætur til fátækra Preſta-Eckna, iñſenda fyrer Conſiſtorial-Rietteñ, edur Synodum Generalem.

8.

Sierhvør ſem fær Vort Kalls-Bref fyrer Einu af Hofud-Kollunum i Skálhollts og Hoola Stiptum, ſkal giefa til Fátækra Preſta-Eckna 2. Rixdale; Þeir ſem Allra-Nádugaſt verda confirmerader til þeirra beſtu Medal-Kalla 1. Rixdal, Og til þeirra Fátækuſtu Medal-Kalla ½ Rixdal; Eñ þeir ſem af Vorum Amtmoñum án þeſs ad ſækia uñ Vora Allra-Náduguſtu Confirmation, fá Veitinga-Bref fyrer þeim Stødum, Hvørra Inntekt er frá 30. Rixdølum til 50. ſkulu gialda til Preſta-Eckna 1. Rixdal i Cronum, Hvørier Peningar afhendaſt ſkulu Profaſtenum, ædur Preſtarner meige iñſetiaſt i Kalled. Sømuleides ſkal hvør Rector i þeim Latinſku Skoolum, Þegar þeir koma til þeſs Brauds, gialda Preſta-Eckiunum 2. Rixdale og Con-Rector 1. Rixdal.

9.

Þeir Preſtar, ſem fyrer nockra Yferſioon i Lijfe og Lifnade, Edur og i þeirra Embætte verda til Utláta álitner fyrer þeirra Yferſiooner, ſkulu leggia þau ſømu til Fátækra Preſta-Eckna, Hvøriar Vætur Profaſte ſkulu afhendaſt, Og hañ þar á Skil ſtanda fyrer Conſiſtorial-Rettenum.

10.

Ef nockur Andlegrar Stiettar Madur, Hvørt helldur vera kañ Preſtur edur Student, fær Vort Allra-Nádugaſta Leife ad eiga Frænd-Koñu ſijna, Þa ſkulu þeir giefa þá Peninga, ſem hijngad til, epter þeirra Efnum, hafa vered Allra-Nádugaſt til-lagder til Hoſpitalanna, til Fátækra Preſta-Eckna, epter Biſkupſins Sañſijñe Tilſøgn.

11.

Ef nockur Andlegrar Stiettar Madur fellur i Barn-Eign, og fær af Oſs Allra-Náduguſtu Uppreiſn, ſkal hañ giefa nockud þar fyrer til Fátækra Preſta-Eckna, epter ſijnu Stande og Efnum, Sem og Biſkupſins Sañſijnelegu Álite. Og uppá þad

12. Aller

Allek Unægietner Peningar til Hiaalpar og Adstodar Faatækum Eckium skule Jafnast og wtskiptast Arlega i Consistorio af Stipt-Amtmañe edur Amtmañe, sem er i hañs Stad, Og Biskupe ad Prestum øllum þar komnum Nærverendum, Og uppaa þad þær mest Naudstøddu Eckiur kuñe faa mesta Hiaalp, skal hvør Profastur so snart Eirn Prestur deyr, Ef nockur Prests-Eckia er i sama Kalle, senda Amtmañe i Stipt-Amtmañs Fiær-Veru, og Biskupe, so sañа Undervijsan, sem hañ vill til svara, uñ Eckiuñar Tilstand og Asigkomulag, Hvar til hañ hefur ad skrifa i siñe Arlegre Skijrslu, uñ Presta-Ecknaña Asigkomulag i hañs Hierade hvort helldur þad fer Batnande edur Hnignande; Og so Meñ kuñe hafa alltijd vissa Under-rietting hier uñ, skal hvør Profastur hafa Eina Book wt af fyrer sig edur Protocoll uñ allt hvad Presta-Eckiurnar aahrærer i hañs Profasts-Dæme, Hvør Book afhendast skal hañs Eptirkomara i Embættenu. Hvar epter Þier Ydur Allraunderdanigast hafed ad hegda, Og med allre Kostgiæfne þar til siaa, ad þetta Vort Allra-Naadugasta Rescript, i øllum þess Greinum, med Allraunderdanigustu Hlijdne verde uppfyllt. Felande Ydur Gude. Skrifad aa Voru Slote Fredens-Borg þañ 5. Junii 1750.

Under Vorre Konunglegre Hende og Signete.

**Friderich R.**

HOLSTEJN.

Vegna Geistlegheitaña aa Islendsku, epter þvi Dansta Exemplare wtlagt,
Test. Hoolum D. 17. Septembr. 1750. Halldor Brinjolfsson.
Superint. Hoola Stiptis.



